# Skýrslur

um

# hagi Íslendinga í Ameríku

(Manitoba og Norðvesturlandinu í Kanada)

sumarið 1890.

REYKJAVÍK.

FJELAGSPRENTSMIÐJAN. — SIGM. GUÐMUNDSSON.

1890.

Mestur hluti Íslendinga, sem til Ameríku hafa farið á síðari árum, hefir sezt að í Manitoba og Norðvesturlandinu í Kanada og þangað hafa nú einnig flutt margir þeir af löndum vorum, sem áður höfðu tekið sér bústað á öðrum stöðum í Kanada og allmargir hafa flutt sig þangað sunnan úr Bandaríkjum. Það er enginn blind tilviljun, að Manitoba og Norðvesturlandið hefir orðið aðaladsetur Íslendinga vestra; reynslan hefir sýnt, að það svæði er öllu athuguðu einkar hentugt fyrir Íslendinga bæði í tilliti til loftslags og landkosta. Loftslag er þar holt og þægilegt, með því að Manitoba liggur á sömu jarðstigum sem Mið-Evrópa. Sumarið er þar álíka heitt og í Suður-Frakklandi, en veturinn álíka og á Norðurlöndum. Meðalhiti á sumrum er 16—20° R.; þó ber það oft við, að heitara er dag og dag. Af þessu leiðir, að jarðargróður er ákaflega mikill og fljótþroska. Ef sáð er í maí, er kornið orðið fullþroska í ágúst. Vetrar eru líkir og í Noregi og Svíþjóð; þó eru vetrar í Manitoba stundum kaldari en alment gerist í suðurhluta Noregs og Svíþjóðar, enn engu að síður miklum mun mildari en á Íslandi og einkanlega langt um styttri. Kuldinn bítur heldur ekki á menn, af því loftið er þurt og hreint. Þokur og skjót veðrabrigði, svo sem snögg umskifti frosts og þíðu, sem eru svo skað-

leg fyrir menn og skepnur, eiga sér ekki stað í Manitoba og Norðvesturlandinu. Fyrir þetta er loptslagið í Manitoba og Norðvesturlandinu eitt hið heilnæmasta í heimi. Lungnasjúkdómar þekkjast þar ekki, né ýmsar hitasóttir, sem algengar eru í Evrópu.

Nóg er þar landrýmið, því enn er þar ónumið land svo mörgum miljónum ekra skiptir, og má með sanni segja, að hver bletturinn sé öðrum betri að landkostum. Jarðvegurinn er ákaflega frjór, einhver hinn frjóasti í heimi, og sérstaklega afbragðsvel fallinn til hveitiræktar. Þar má og rækta allar korntegundir; þar vex hin bezta tegund af byggi og höfrum, en einkanlega er hveitið orðlagt fyrir gæði. Manitoba-hveiti er hið bezta hveiti í allri Ameríku, og er það almennt viðurkent á heimssýningunum. Bushel af Manitoba-hveiti vegur jafnaðarlega 62—66 pd., og fæst venjulega 25 bush. af ekrunni, og stundum meira. — Þá er landið einnig ágætlega fallið til kvikfjárræktar, og mun innan skamms verða eitt hið mesta kvikfjárræktarland í heimi. Grassléttnrnar (preríurnar) eru allar vafðar í grasi, og er það hið ágætasta haglendi fyrir fénað. Bændur stunda því alment kvikfjárrækt ásamt akuryrkjunni. Kúabú eru þar mikil og þarf lítið fyrir þeim að hafa. Svínarækt er þar í miklum uppgangi, og þykir mjög ábatasöm. Varla hefir orðið vart við nokkra sjúkdóma á fénaði í Manitoba, né yfir höfuð í Kanada, og er það ekki lítill kostur. — Garðjurtir allar vaxa ágætlega í Kanada, sömuleiðis epli og önnur aldini. Jarðvegurinn er sérstaklega góður fyrir kartöflur og kál. — Veiðiskapur er mikill í Manitoba og Norðvesturlandinu, bæði dýraveiði og fuglveiði, og hver á og hvert stöðuvatnið fult af fiski af ýmsum tegundum. — Neyzluvatn er þar víðast nægilegt og gott, og hægt að ná því.

Járnbrautir er stöðugt verið að leggja á hverju ári og hafa því Manitoba-menn greiðar samgöngur og fjörugt viðskiftalíf.

Almenn uppfræðsla og skólakensla er undir umsjón stjórnarinnar og rækilega útbreidd. Ókeypis skólar (fjrískólar) fyrir öll börn, þar sem kend eru nauðsynleg undirstöðu-atriði almennrar mentunar. Aðgangur að hinum æðri mentastofnunum er öllum opinn. Ótal fátækir foreldrar, sem flutt hafa til Ameríku, og ekki hafa getað mentað börn sín heima í föðurlandinu vegna fátæktar, eiga það fjrískólunum að þakka, að þau hafa komið börnum sínum til góðrar menningar og síðan í góða stöðu.

Hver nýbyggi, sem hefir fjölskyldu, ekkjur með fjölskyldu og hver maður einhleypur, sem er 18 ára eða eldri fær ókeypis hjá stjórninni 160 ekrur af landi, ($^1/_4$ úr section), og svo mikið land annað sem hann vill, með því að borga á þriggja ára fresti 2$^1/_2$ dollar fyrir hverja ekru.

Að tiltölu þarf lítið fé til að geta reist bú í Manitoba og Norðvesturlandinu ef laglega er á haldið. Þar til heyrir fyrst og fremst, að geta komið upp húsi, keypt ein akneyti, plóg og herfi, vagn og áhöld, húsbúnað og nægilegan vistaforða til bráðabirgða.

Samkvæmt skýrslum, sem stjórnin hefir látið safna, hafa Íslendingar þeir, sem sezt hafa að í Kanada, ekki byrjað með meira en 130 doll. að meðaltali, að undanteknum Ný-Íslendingum, sem flestir hafa byrjað allslausir.

Engir, sem ekki nenna að vinna ættu ekki að fara til Manitoba eða Norðvestrlandsins; það er ekki hægra fyrir letingja að komast þar áfram, en annarstaðar. Allra sízt ættu óreglumenn að fara þangað; þeim verð-

ur ekki ferðin til fjár, ef þeir halda þar áfram lifnaðarhætti sínum.

Einkum þarfnast landið manna, sem vilja gefa sig að jarðrækt. Handiðnamenn, svo sem trjesmiðir, járnsmiðir og skósmiðir, geta og átt vísa von um atvinnu. Kvennfólk fær ávallt hæga atvinnu.

Samkvæmt ákvörðun Kanada-stjórnarinnar, 16. apr. þ. á., verður engum manni, sem ekki er starffær, líkamlega eða andlega, veitt viðtaka þegar til Ameríku kemur, og ættu slíkir menn því ekki að fara, þar eð þeir mega búast við að verða sendir heim aftur.

Hér heima á Íslandi hafa menn hingað til verið á ýmsum skoðunum viðvíkjandi högum Íslendinga í Ameríku og mjög greint á um það, hvort þeim í raun og veru mundi líða betur að öllu samanlögðu vestan hafs en hér heima á Íslandi. Um þetta hefir sögunum oft ekki borið saman, sem og eðlilegt er, þar sem ekki hafa verið fyrir hendi neinar áreiðanlegar skýrslur, heldur hafa menn ýmist farið eftir frásögnum þeirra Íslendinga er komið hafa heim aftur frá Ameríku, sem einkum hafa verið þeir, sem ekki hafa getað komizt þar í bærilega stöðu eða ekki unað sér, og þá vanalega verið ókunnugir högum landa þar — eða menn hafa farið eftir brjefum frá Íslendingum í Ameríku, sem eðlilega hafa látið ýmislega af högum sínum og sitt í hvort skiftið, en áreiðanlegt yfirlit yfir efnahag Íslendinga þar vestra hefir gjörsamlega vantað.

Nú vill svo vel til, að Kanada-stjórn hefir látið safna skýrslum um hagi Íslendinga í öllum nýlendunum í Manitoba og Norðvesturlandinu. Þessar skýrslur taka af öll tvímæli, um það, hvernig Íslendingum líður í Manitoba; þær eru svo nákvæmar, að þær greina frá frá í hvaða reit (section) hver bóndi á heima, hvað

hann heitir og hvaðan hann er af Íslandi, hve nær hann hefir reist þar bú, hve margt fólk hann hefir í heimili, hve margar ekrur lands hann hefir í ræktun, hvaða jarðargróða hann ræktar, hvað margt hann á af fénaði, nautgripum, hestum, kindum, svínum og alifuglum, hve miklar eignir hann á í húsum og jarðeignum, hve mikið hann á í verkfærum og áhöldum, hve mikið fé hann hafði til að byrja búskapinn, hve miklar skuldir hans eru nú og hve mikils virði eigur hans eru nú metnar í dollara-tali.

Nýlendur þær, er Íslendingar einir eða því nær byggja í Manitoba og Norðvesturlandinu eru: Nýja Ísland, Álftavatns-nýlenda, Argyle-nýlenda, Þingvalla-nýlenda, Qu' Appeldals-nýlenda, Alberta-nýlenda. Auk þess búa nokkrir Íslendingar á vesturströnd Kanada í British Columbia, þar á meðal nokkrir í höfuðborginni Victoria á Vancouver-eynni. En hvergi eru jafnmargir Íslendingar samankomnir á einum stað sem í Winnipeg, höfuðborginni í Manitoba, sem hefir tekið undrunar verðum framförum á skömmum tíma. Íbúar eru þar yfir 30,000, og er þó borgin að eins 10 ára gömul. Íslendingar í Winnipeg munu nú vera um 3000, eða nálega 10. hver borgarbúi, enda má sjá það á hinum íslenzku blöðum, sem koma út í Winnipeg, að Íslendingar þar láta talsvert til sín taka sem sérstakur þjóðflokkur. Þetta sýndi sig einnig í sumar á þjóðhátíð þeirri, er Íslendingar héldu í Winnipeg 2. ágúst („Íslendinga-degi“, sem þeir nefndu svo), því ameríksk blöð luku þá alment lofsorði á Íslendinga fyrir dugnað, sparsemi, reglusemi og ráðvendni, og sérstaklega tóku þau fram, hve vel Íslendingar væru að sér og hve fljótir þeir væru að nema ensku og taka upp amerikska háttu. Þeir væru einhver atkvæðamesti þjóðflokkur í

Manitoba og Manitoba-menn kysu enga þjóð fremur til sambúðar.

Vér skulum nú í fám orðum skýra frá hinum íslenzku nýlendum. Því miður vantar í bráð fullkomnar skýrslur frá Nýja Íslandi, Qu' Appell-dals-nýlendunni og Alberta-nýlendunni, og verður því að sleppa þeim að sinni, en þær verða gefnar út svo fljótt sem því verður viðkomið, og þá jafnframt hagskýrslur þær allar, er hér er tekinn stuttur útdráttur úr, svo menn hér heima á Íslandi geti séð greinilega, hvernig hverjum einstökum af löndum vorum vegnar þar vestra.

## 1. Álftavatns-nýlenda

er 75—80 mílur norðvestur frá Winnipeg í 19. og 20. hverfi, (township) 4. og 5. deild (range), og 21. hverfi, 3. deild, fyrir vestan hádegisbaug, en um 750 fet yfir sjávarmál. Landslagi í nýlendunni er þannig háttað, að þar eru sléttir flóar vel grösugir og smáöldur á milli. Á þessum öldum vex kjarr og ösp, og er það brúklegur húsaviður og gnægð til eldiviðar. Landið hefir áður verið mjög vott og undir vatni, en er allt af þorna, og væri það ræst fram með skurðum, mundi það verða ágætt akurland, en eins og nú er ástatt, er landið einkum vel fallið til nautpenings og sauðfjárræktar.

Þegar skýrslan um efnahag nýlendubúa var samin í júnímánuði í sumar, vóru 32 bændur í nýlendunni, enn síðan hafa þeir fjölgað svo, að þeir munu vera 40—50.

Af þessum 32 búendum komu þangað árið 1887 10, 1888 9, 1889 9 og 1890 5.

Fólkstalið hjá þessum 32 búendum var 155 manns.

Þeir hafa 26 ekrur undir ræktun, og eru það mestmegnis matjurtagarðar, sem spretta vel.

Eignir nýlendubúa eru þessar:

Nautgripir 384; þar af 127 kýr, 47 uxar og 210 ungneyti.

Hestar 5.

Kindur 20.

Svín 1.

Hæns 204.

| | | |
|---|---|---|
| Hús og jarðir | doll. | 6410 |
| Verkfæri | — | 2030 |
| Eignir bænda í nýl. alls | — | 29979 |

Löndin eru virt á 250 doll. hver ekra, og að auki 5 doll. fyrir hverja ræktaða ekru. Kýr 30 doll., akneyti 140 doll., aðrir nautgripir eftir aldri og vænleika, fullorðnar kindur hver á 5 doll.

| | | |
|---|---|---|
| Skuldir nýlendubúa nú | doll. | 1852 |
| Skuldlausar eignir | — | 28127 |
| Stofnfé, er nýl.menn byrjuðu með | — | 5436 |
| Gróði: | doll. | 22691 |

(Hver bújörð metin upp og niður doll. 400 eða 1500 kr.)

Þegar gróðanum er jafnað niðr á alla bændr nýlendunnar, kemr það fram, að hver bóndi hefir grætt að meðaltali á ári um 400 doll. eða um 1500 kr.

Efnuðustu bændur í nýlendunni eru þeir Árni M. Frímann og Jón Sigfússon. Þeir fluttu þangað árið 1887, og átti þá hr. Frímann 500 doll. en á nú 1600 dollara virði. Jón átti 400 doll.. en á nú 1940 doll.

Sá af nýlendumönnum. er mest átti til að byrja búskapinn með, hafði 500 dollara, en margir byrjuðu með 30 — 50 dollara. Af þessu má sjá, að nýlendumenn hafa grætt ótrúlega mikið á svo stuttum tíma, að eins 2 — 3 árum.

Verið er að leggja járnbraut, sem gengur frá Winnipeg norður eftir, og verður hún lögð yfir nýlenduna.

## Þingvalla-nýlenda

er 260 mílur í norðvestr frá Winnipeg, í 22.—23. hverfi. 31—32. deild, um 1650 fet yfir sjávarmál. Þar er land gott til hveitiræktar og akuryrkju yfir höfuð, og sérstaklega ágætt til kvikfjárræktar. Hinn eini ókostr þar er sá, að heldur er örðugt að ná neyzluvatni.

Þegar skýrslan um efnahag nýlendubúa var samin í ágústmánuði í sumar voru 70 búendur í nýlendunni.

Af þessum 70 búendum komu þangað 18 árið 1886, 15 1887, 12 1888, 13 1889 og 12 1890.

Fólkstala hjá þessum búendum var 282 manns.

Þeir hafa 511 ekrur undir ræktun; þar af undir hveiti 149, undir höfrum 38, undir byggi 4, undir rúgi og baunum $1^1/_2$ og matjurtagarðar eru $66^1/_2$ ekra.

Eignir nýlendubúa eru þessar:

Nautgripir 695; þar af 219 kýr, 84 uxar og önnur geldneyti 392.

Hestar 19.

Kindur 406.

Svín 11.

Hæns 821.

| | | |
|---|---|---|
| Virðingarverð á húsum og jörðum . . . | doll. | 15080 |
| —— - verkfærum . . . . . . | — | 4266 |
| Eignir bænda í nýlendunni alls . . . . . | — | 95992 |

Löndin eru virt 4 doll. hver ekra og að auki 5 doll. fyrir hverja ræktaða ekru. kýr 35 doll., akneyti 140 doll., aðrir nautgripir eftir aldri og vænleika, fullorðin kind 7 doll.

| | | |
|---|---|---|
| Skuldir nýlendubúa nú . . . . . . . . | doll. | 5194 |
| Skuldlausar eignir . . . . . . . . . | — | 85178 |
| Stofnfé . . . . . . . . . . . . | — | 10614 |
| Gróði: | — | 74564 |

Þegar þess er nú gætt, að nýlendan er að eins fjögra ára gömul, er það stór furða, hve mikið fé nýlendumenn hafa grætt á svo stuttum tíma.

Gróði hvers búanda hefir að meðaltali verið 490 doll. um árið eða = 1837 kr. 50 a.

Járnbraut frá Winnipeg liggur þessa nýlendu.

### Qu'Appelldals nýlenda

er 20 mílur suður frá Þingvallanýlendu, í 18. hverfi, 31.—32. deild; um 1300 fet yfir sjávarmál. Þar er land ágætt til akuryrkju og kvikfjárræktar, en að eins mjög fáir íslenzkir bændur hafa sest þar að, enn sem komið er.

### Alberta-nýlendan

er um 900 mílur í vestur frá Winnipeg, en 70 mílur í norður frá bænum Calgary, vestr við Klettafjöllin. Þar er gott land bæði til kvikfjárræktar og akuryrkju, og loftslag ágætt, sumarhitinn minni en í hinum nýlendunum og líkara íslenzku loftslagi.

Í júnímánuði í sumar voru 30 bændur í nýlendunni, og var fénaðareign þeirra þessi:

Nautgripir 180; þar af 79 kýr, 8 uxar og önnur geldneyti 93.

Hestar 16.
Kindur 16.
Svín 2.
Hæns 164.

Þessi efnahagur er furðu góður, þegar þess er gætt, að enginn af nýlendubúum (sem komu þangað allslausir að kalla), hefir verið þar lengr en 2 ár, margir ekki nema ½ ár, og að miklir erfiðleikar eru á að koma

þar vörum sínum í verð vegna ónógra samgangna, en nú stendur til, að járnbraut verði lögð þar um.

## Argyle-nýlendan

er 110 mílur í suðvestur frá Winnipeg, í 5. og 6. hverfi, 13.—15. deild, og 7.—8. hverfi, 13. deild, 1270 fet yfir sjávarmál. Landið er öldumyndað, frjósamt mjög og vel lagað bæði til akuryrkju (hveitiland gott) og til kvikfjárræktar. Það er mjög efnileg nýlenda og alment talin hin fremsta af íslenzkum nýlendum í Ameríku, en lönd eru þar öll numin.

Þegar skýrslan um efnahag nýlendubúa var samin í ágústmánuði í sumar, voru 113 búendur í nýlendunni.

Af þessum 113 búendum komu þangað árið 1881 7, 1882 17, 1883 15, 1884 18, 1885 10, 1886 10, 1887 11, 1888 9, 1889 15, 1890 2.

Fólkstala hjá þessum búendum var 526 manns.

Þeir hafa um 7000 ekrur í rækt, þar af 4458 undir hveiti, 638 undir höfrum, 33 undir byggi og matjurtagarðar eru 57 ekrur.

Eignir nýlendubúa eru þessar:

Nautgripir 1443; þar af 440 kýr, 174 uxar og önnur geldneyti 829.

Hestar 234.

Kindur 590.

Svín 161.

Hæns 3193.

| | | |
|---|---|---|
| Virðingarverð á húsum og jörðum . . . | doll. | 228170 |
| — lifandi peningi . . . . . | — | 74522 |
| — verkfærum . . . . . . . | — | 36415 |
| Eignir bænda í nýlendunni alls | — | 339327 |

(Með eignum bænda eru ekki talin húsgögn og ekki korn og káltegundir, sem búið er að sá).

Löndin eru virt eftir lægsta markaðsverði þeirra. Kýr 35 doll., akneyti 140 doll., hver fullorðin kind 5 doll., hestar eftir stærð og vænleika 75—225 doll.

| | | |
|---|---|---|
| Skuldir nýlendubúa nú . . . . . . | doll. | 77930 |
| Skuldlausar eignir . . . . . . . . . . | — | 261397 |
| Stofnfé . . . . . . . . . . . . . . . | — | 13549 |
| Gróði | — | 247848 |

Þegar gróða þessum er jafnað niðr á alla bændr nýlendunnar, sést, að hver þeirra hefir grætt að meðaltali á ári um 600 doll. eða um 2250 kr.

Ríkasti maðurinn í nýlendunni, Sigurður Christofersson úr Þingeyjarsýslu, á skuldlausar eignir að upphæð doll. 10530, og hann byrjaði 1881 með 165 doll.

Tveir hinir næstu, Björn Andrésson úr Skagafirði og Þorsteinn Jónsson af Melrakkasléttu eiga skuldlausar eignir yfir 7000 doll.

Fjórir hinir næstu um og yfir 600 doll. Einn af þeim er Skapti Arason úr Þingeyjarsýslu. Hjá honum varð húsbruni fyrir 2—4 árum, og misti hann þá mikið af eignum sínum, en þó eru eigur hans nú metnar 5530 dollara.

Tíu hinir næstu um og yfir 5000 doll. Allur hávaðinn á skuldlausar eignir fyrir um 2000—3000 dollara, eða í krónutali frá 7500 kr. upp í 11250 kr.

Þess er vert að geta, að fjölskylda ein úr Þingeyjarsýslu (fátækur bóndi með börnum), sem send var af sveitinni til Ameríku, hefir komizt svo vel áfram, að eigur þessa fólks eru nú metnar um 40000 kr.

Um hag þessarar nýlendu þarf því engum orðum að fara, tölurnar tala langtum betur enn öll orð.

Þegar hér á ofan bætist, að útlit var fyrir beztu uppskeru, sem og hefir komið fram síðan, má gera ráð fyrir, að nýlendubúar séu nú við það að komast úr öllum skuldum. Uppskeran var áætluð yfir 75000 doll. virði, en skuldirnar 77,930, en þar voru ekki reiknuð með afnot af búpeningi né uppskera úr görðum, sem gerir miklu betur enn jafna mismuninn.

Járnbrautir tvær liggja þegar yfir nýlenduna, önnur frá Winnipeg til Glenboro, enn hin liggur yfir nýlenduna sunnanverða.

# Til minnis.

*1 dollar* er hér talinn = kr. 3.75, enn má öllu fremur teljast = kr. 3,78, þótt amerikskum peningum fáist ekki skift hér á landi nema fyrir miklu minna verð. Þar sem dollarar eru reiknaðir eftir krónum í þessum skýrslum, er því í rauninni oflágt reiknað.

*1 bushel* er rúmlega 2 skeppur.

*1 míla* (ensk) er 854 faðmar danskir; 5 enskar mílur eru því rúm dönsk míla.

*1 ekra* er 10270½ ferhyrningsálnir danskar (nokkru meir enn ²/₃ engjadagsláttu). Alt land er mælt og skift niður af stjórninni í ferhyrninga. *Township* (hverfi) er ferhyrningur, sem er 36 ferhyrningsmílur; hver mílu-ferhyrningr er nefnd *section* (reitur): í hverri ferhyrningsmílu eða section eru 640 ekrur, er aftur skifti í fjóra hluti, sem hver er 160 ekrur.

# Allan-Línan

er sú eina lína, sem sendir gufuskip hingað til lands einungis til að sækja vesturfara. Það hefir línan gert nú í mörg ár, hvort sem margir eða fáir hafa farið, og þau ein skip, sem hún sendir, eru útbúin til að flytja fólk samkvæmt útflutningslögunum. Eins og að undanförnu mun Allan-Línan senda skip um miðjan júní, næstkomandi til að sækja þá, er vilja flytja með henni, og tekur þá á vanalegum höfnum, svo framarlega sem ís eða aðrar ófyrirsjáanlegar hindranir ekki banna. Það er mjög áríðandi, að allir, sem til Vesturheims ætla að flytja á næsta sumri og taka sér far með Allan-línunni, gefi sig fram og panti far hjá mér eða agentum mínum svo tímanlega, að eg fái að vita tölu þeirra ekki síðar enn í síðasta lagi með fyrsta strandferðaskipi í vor komandi, 1891, svo eg geti pantað hæfilega stórt skip í tíma.

Hr. Baldvin Baldvinsson, agent stjórnarinnar í Kanada, verður túlkur og yfir-umsjónarmaður með því fólki sem fer með línunni í júnímánuði, eða aðalhópnum á næsta sumri, og fylgir því alla leið til Winnipeg, og er því bezt fyrir alla, sem ætla að fara, að sæta því tækifæri að njóta hans leiðsagnar.

Einnig mun eg, eins og að undanförnu flytja með dönsku póstskipunum þá, sem heldur vilja taka sér far með þeim, svo framarlega sem þau framvegis flytja nokkra vesturfara.

Sigfús Eymundsson,

útflutningsstjóri.